# Hið Konúngliga Norræna Fornfræða-Fèlag.

*Velæruverðugum Presti,*
*Sira Pauli Árnasyni,*
*á Bægisá.*

**F**ORNFRÆÐA-FÈLAGIÐ yrkir nú á nýan stofn, að loknum útgáfum þeirra ritgjörða er það fyrst byrjaði af hendi að leysa, og hefir tekið það fyri sig að láta önnur rit á prent útgánga, er fremja kynnu þess aðalaugnamið, sanna virðíng og þekkíng Norðurlandanna fornrita og fornleifa. ÍSLENDÍNGA-SÖGUR og ný áreiðanleg útgáfa af SNORRA STURLUSONAR NOREGS KONÚNGA-SÖGUM eptir fornum skinnbókum og öðrum beztu handritum, hljóta að vera svo æskiligar öllum Íslendíngum, er kunna sinn og föðurlandsins sóma, að vèr ekki þurfum að eyða fleirum orðum til að mæla frekar framm með því Fèlagsins áformi. Þaraðaukí ætlar Fèlagið í nýu Tímariti eður Annálum norrænnra fornfræða, ANNALER FOR NORDISK OLDKYNDIGHED, í dönsku máli, eptir efnum að leitast við að lètta myrkva þeim er lengi hefir legið yfir ymsum fornsögum og fornaldarháttum, einkum forfeðranna dagliga líferni, klæðnaði, vopnum, djásnum og öðrum dýrgripum, smíðatólum og mörgu fleiru viðlíku, einnig þeirra mentum, listum og handyrðum, rúnamindum og seinna miðaldarletri o. s. fr., er allt á að upplýsast bæði með sèrlegum ritum og með mindum eður málverkum, gröfnum í eyr eður málm. Til undirbúníngs þessara verka hefir Fèlagið útgefið litla handbók fyri fornfræða og fornleifa vini, er nefnist “LEDETRAAD TIL NORDISK OLDKYNDIGHED”, hvörn ritlíng vèr biðjum YÐUR sem litla gjöf vel að virða. Undir eins leyfum vèr oss að senda YÐUR nákvæmari lýsíng Fèlagsins nýu eður tilvonandi ritgjörða, með tilheyrandi áteiknunarblöðum, undir hvörra útbreiðslu og góðu viðtökum þess fyrrtèðu fyritækja tilhlýðiligur frami er kominn, og felum þannig YÐAR velvild þettað efni á hendur til bestu og haganlegustu fyrigreiðslu.

KAUPMANNAHÖFN Í FORNFRÆÐA-FÈLAGSINS STJÓRNARSAMKOMU
þANN 28 APRÍLIS 1837.

| | | |
|---|---|---|
| *Werlauff,* | *Finn Magnúsen,* | *Rafn,* |
| *Forseti.* | *Aukaforseti.* | *Skrifari.* |

# ATHUGASEMDIR.

I. Sá mikli flokkur, er nefnist **FORNMANNA-SÖGUR**, er nú til lykta leiddur með því 12ta bindi, sem í ár sendist þeim á Íslandi, er sig hafa fyri því skrifað. Eptir þeirri ákvörðun, er á sinum tíma var auglýst, er sá þeim eptirlátni lægri prís, 5 skildíngar fyrir örkina, ekki framvegis gildandi fyri neina aðra, en er nú almennt ákvarðaður til 8 skildínga fyri hvörja örk.

II. Þeir sem kynnu að óska einstakra bindina eður deilda af þeim fyrr af Félaginu útgefnu bókum til fullkomnunar einhvörs sérlegs flokks þeirra, umbiðjast að gefa það til kynna sem fyrst, meðan þau enn eru fáanleg.

III. Fyrsta Bindis fyrsta deild af Grænlendínga-Sögum eðr **GRÖNLANDS HISTORISKE MINDES-MÆRKER** mun nú bráðum í ljós leiðast. Margfaldar hindranir hafa híngaðtil tafið þeirra útgáfu, og nefnum vér helzt hértil þann fjölda af fornum handritum, að miklu leiti vart læsilegum ok áður óuppskrifuðum eður alls óþekktum, skinnbókum eður slíkum brotum og blöðum, sem þartil hafa hlotið að brúkast, svo að innihald fornritanna yrði sem fullkomlegast í ljós leidt í verksins fyrstu tveimur bindum, með danskri útleggíng og skýríngargreinum, eins og til er skilið í því áður þarum útgengna boðsbréfi. Í þriðja bindi innfærast seinni aldar merkilegar skýrslur (á dönsku) um fornleifar á Grænlandi, svo og um þær ferðir er loks leiddu til Vestur- og Austur-Grænlands nýu uppgötvunar, höndlunarstaða grundvöllunar og kristindómsins útbreiðslu á Vesturströndunum o. s. fr. Stærð sérhvörs af þeim tveimur fyrstu bindum (og líkliga hins þriðja með) verður frekar 50 arkir. Nokkur prentuð boðsbréf, á hvör ymsir heiðursmenn á Íslandi höfðu 1832 skrifað sig sem kaupendur að þessu verki, komu oss þá til handa. Um margra áteiknanda nærverandi bústaði eður aðra hagi erum vér nú í óvissu, og væntum því nákvæmari tilkynníngar þarum, fyrr enn þau af þeim óskuðu exemplör verða héðan send. Þeir, sem í téðu tilliti eru oss alkunnugir, mega sem fyrst vænta að hin fyrsta deild verði þeim tilsend. Áteikningunni var lokið um haustið 1832; þeir á Íslandi, sem þá skrifuðu sig fyri verkinu, geta fengið það mót borgun 6 skildínga fyrir örkina, — en ef nokkur exemplör verða fáanleg þarfyrirutan, borga aðrir kaupendur 8 skildínga fyri hvörja örk.

IV. Innan fárra vikna útkemur hin fyrsta deild af tímaritinu **ANNALER FOR NORDISK OLDKYNDIGHED**. Þeir er vilja skrifa sig fyri þessum Annálum, er ávalt munu prýddir verða með uppdráttum eður myndum merkilegra fornleifa í Norðurlöndum, umbiðjast sem fyrst að aptursenda híngað þau þannig af þeim áteiknuðu boðsbréf.

V. Þeir er eignast vilja þann nýa söguflokk, hvörs útgáfu Félagið nú byrjar með þessari fyrisögu **ÍSLENDÍNGA-SÖGUR** FRÁ ÍSLANDS BYGGÍNGU TIL ANNARS ÞRIÐJÚNGS FJÓRTÁNDU ALDAR, umbiðjast að skrifa sig fyri þeim, áður enn póstskipið fer híngað frá Íslandi næstkommenda vor 1838, þar áteikningartíðinn útleypur algjörlega með September mánaði sama árs. Þettað verk verður prentað í stærra formi og á fallegara prentpappír enn Fornmanna-Sögurnar; samt reiknast áteikningarprísinn einúngis 5 til 6 skildíngar fyrir örkina, hvarámót verðið fyri seinni kaupendur verður 8 skildíngar fyrir örkina. Á hvörju ári mun útkoma eitt bindi, hvörs arkatala að sönnu nú ekki verður nákvæmlega ákvörðuð, en mun þó vart verða hærri enn 30 arkir.

VI. Prísinn á þeirri nýu útgáfu af **SNORRA STURLUSONAR NOREGS KONUNGA-SÖGUM**, sem í mörgu mun verða frábrugðin þeim eldri, verður hinn sami, fyrir hvörja örk, sem á því fyrrnefnda verki, og þeirra kaupenda, er fyri framm skrifa sig fyrir þeim, hugaður líka hinn sami. Þeir, er þannig vilja eignast þær, umbiðjast at gefa það til kynna með skipaferðum á næstkomanda hausti innan útgaungu Októbermánaðar.

VII. Hvör, sem þannig útvegar loforð kaupenda, rituð á Félagsins boðsbréf, og síðar sendir verð bókanna, eignast sjálfur hvört 6ta exemplar ókeypis, eður hefir, ef hann kemr 6 exemplörum út, rétt til að draga, handa sjálfum sér, sjöttúng andvirðis allra þeirra af Félaginu útgefna bóka er hann þannig selur, með þeim skilmála að hann árlega sendi hitt andvirðið í peníngum eðr með vissri ávísun til borgunar hér í staðnum. Áteiknendur umbiðjast að gjöra svo vel að skrifa, ásamt nafni sínu og bústað, þann þeim næsta höndlunarstað, til hvörs kaupskip árlega plaga að sigla. Áteiknuð boðsbréf, eður áreiðanlegar tilkynníngar um þá er skrifa sig fyri þessum bókum með fyrrgreindum kjörum óskast tilsendar Félagsins Skrifara, eður og þess Auka-Forseta (Vice-Formand) *Prófessori og Geheime-Archivarius FINNI MAGNÚSSYNI, búandi í Klausturstrætinu Nr. 73.*